Öreigar og kúgaðar þjóðir heims sameinist!

# Stéttabaráttan



Málgagn Kommúnistaflokks Íslands/Marxista-Lenínista

47. og 48. tölublað | Þriðjudagurinn 27. desember | 6. árgangur. | Verð kr. 60.



## Aronskan: Siðleysi íhaldsins

Alla tíð hafa herstöðvasinnar og aðrir íhaldsmenn réttlætt veru hersins hér með því að hann "væri að vernda sjálfstæði landsins." Í samræmi við það kalla þeir herinn ætíð "varnarlið."

En hin nýja hugmynd íhaldsins, aronskan, hafnar þessu "verndarhlutverki".

Raunverulegt hlutverk hersins er að vernda áhrifa svæði bandarískrar heimsvaldastefnu. Um leið er herinn baktrygging íslenskrar borgarastéttar fyrir völdum. Síðast en ekki síst ber að geta þess að herinn hefur orðið hluta borgarastéttarinnar umtalsverð féþúfa.

Undanfarið hefur þeirri rödd bæst styrkur sem vill "að herinn borgi fyrir afnot af íslensku landi." Aronskan s.k. álítur það undirlægjuhátt að veita hernum "ókeypis afnot af íslensku landi." Aronskusinnar vilja selja landið fyrir vegarspotta, bryggjur, brýr, skatta og skyldur.

Eða eins og einn riddari aronskunnar sagði: "Það væri búið að selja, það stæði bara á greiðslu."

Geir Hallgrímsson vill hins vegar ekki "setja verðmiða á landið", hann græðir nú þegar beint á nærveru hersins. Íslenskir aðalverktakar hafa einkarétt á framkvæmdum fyrir herinn. Geir Hallgrímsson, sem gefur sig út sem einkar þjóðhollan mann, er fyrrverandi stjórnarformaður þess stærsta af þremur fyrirtækjum sem mynda Íslenska aðalverktaka.

SÍS-auðvaldið fær líka sína sneið í gegnum Essobensín til hersins.

Þannig er alls ekki rétt röksemd aronskunnar að herinn greiði ekkert. Riddarar aronskunnar vilja hins vegar líka fá eitthvað í sinn hlut. Þeir vilja ekki láta örfáa auðvaldsherra græða á hernum, þeir vilja að gervöll borgarastéttin fái að baða sig í amerískri allsnægtasól.

Augljós forsenda aronskunnar er að herinn sé hér vegna bandarískra hagsmuna en ekki íslenskra. Ef herinn væri hér vegna hagsmuna Íslendinga væri út í hött að krefjast greiðslu. Aronskumenn skilja að herinn er

framhald á bls. 6



Fiskveiðar eru undurstöðuatvinnuvegur þjóðarinnar. Þrátt fyrir það hefur ríkisvaldið í bandalagi við eigendur frystihúsanna á Eyrarbakka og Stokkseyri lagt niður rexturinn síðan í águst í sumar. Stokkseyringar voru knúðir til að selja bátanna er öfluðu hráefnis til frystihúsanna, til að leysa úr verstu skuldabirgðunum. En það er ekki bara atvinnuleysi sem er hlutskipti íbúa þessara sjávarplássa, nú fyrir nokkrum vikum urðu mikil flóð er ullu miljóna skemmdum.

## Um hvað er að velja, ef Dagsbrún á að verða öflugt baráttutæki

Nú er tæpur mánuður til stjórnarkjörs í verkamannafélaginu Dagsbrún. Því er eðlilegt að athuga þá möguleika sem við verkamenn höfum, til að ná fram því markmiði að verkalýðsfélagið verði baráttutæki í okkar höndum. Margir verkamenn eru á þeirri skoðun að hafa beri samstarf við núverandi stjórn, fá inn fulltrúa úr okkar röðum er síðan reyna að knýja á um hagsmunamál verkamanna með því að ýta og pota til verka hinni borgaralegu félagsstjórn Dagsbrúnar. Ótalmargir harðir og stéttvísir dagsbrúnarmenn hafa reynt að fara þessa leið, en það hefur ætíð endað á sama veg, þeir hafa verið talaðir niður með látlausum úrtölum borgaralegu verkalýðsforystunnar og engu fengið að ráða. Síðan hafa þeir gefist upp og verið hraktir burt úr félagsstjórninni. Við getum því dregið þær ályktanir að samstarf við uppkeypta verkalýðsforingja mun ekki færa dagsbrúnarmenn nær því markmiði að gera félagið að sterku baráttutæki. Ef við færum þessa leið skildum við ekki eðli hinnar uppkeyptu verkalýðsforystu er þrífst eingöngu vegna svika sinna við verkalýðinn, með því að draga úr baráttuvilja hans til þess að tryggja sjálfum sér embætti og vellaunaðar stöður í hinu borgaralega þjóðfélagi, úr hendi atvinnurekenda og handbenda þeirra. Hin borgaralega verkalýðsforysta lætur verkamenn aldrei kúga sig til að taka upp baráttu gegn atvinnurekendum og þjóðfélagsskipan þeirra, því þá væri hún um leið að kippa grundvellinum undan lífskjörum sínum og taka sína eigin gröf.

Við eigum því aðeins um eina leið að velja, erfiða og harða baráttu við hina borgaralegu forystu Dagsbrúnar, með það að markmiði að fella hana. Það er í mikið ráðist og vissulega ekki á garðinn þar sem hann er lægstur, því þrátt fyrir að fél-

framhald á bls. 7

## Þeir stóru sleppa

Nýlega komst upp um gífurleg gjaldeyrissvik Íslendinga í sambandi við innflutning skipa frá Noregi. Að vísu hefur orðrómur um slík svik lengi verið uppi, en beinar sannanir hafa ekki legið fyrir fyrr. Svikin komust upp í sambandi við rannsókn norskra skattyfirvalda á bókhaldi skipasmíðastöðva þar í landi. Um er að ræða að minnsta kosti 20 skip, sem seld voru til Íslands fyrir 6-7 árum síðan. Komið hefur í ljós, að gefið var upp of hátt söluverð á skipunum, og var mismuninum varið til kaupa á ýmsum aukaútbúnaði á skipin, en gjaldeyrisyfirvöld veita ekki leyfi fyrir meiru en söluverði skipanna sjálfra. Hafa skipasmíðastöðvarnar og hinir íslensku aðilar því undirritað falska sölusamninga, þar sem verð skipanna var skráð of hátt, og ekki getið um að viðbótarútbúnaður hafi verið keyptur. Þar sem um er að ræða sölu á skipum, eru þær fjárhæðir, sem þarna hefur verið skotið undan gífurlega háar.

### Ekkert gert í málinu.

Ætla mætti, að verðir íslenskra laga og réttvísi sýndu nú röggsemi og dæmdu hart þá menn, sem svo gróflega hafa brotið íslensk lög. -En svo verður ekki- Lagabókstafnum er nefnilega ekki ætlað það hlutverk, að refsa ráðandi stétt, þeim sem eiga atvinnutækin. Þess vegna er lögunum komið svo fyrir, að svona lögbrot fyrnast á mjög skömmum tíma. Þannig fyrnast brot á skattalögunum á sex árum, en gjaldeyrissvik eins og innflutningur þessarra skipa fyrnist á aðeins fimm árum. Það liggur í augum uppi, að rannsókn í málum sem þessum er mjög tímafrek Eru því litlar líkur á, að sá sem uppvís verður að slíku broti verði sakfelldur. Þeir aðilar, sem stóðu að þessum gjaldeyrissvikum, sem nema örugglega tugum ef ekki hundruðum milljóna verða

framhald á bls. 7



8 síður í dag

LEIÐARI

# Spilling embættismanna

Nú undanfarið hefur það orðið æ tíðara að allskonar svokölluð hneykslismál hafa skotið upp á hinum "ótrúlegustu" stöðum í þjóðfélaginu. Allt hefur þetta líka orðið ótrúlegra eftir því sem á hefur liðið og engar líkur virðast vera á öðru en þessu nýja undirheimaliði eigi enn eftir að fjölga. Það skal enginn halda að mál eins og þau sem margir forystumenn hinna sundurleitu stjórnmálaflokka eru flæktir í séu ný af nálinni og slíkt áður óþekkt á Íslandi. En það er auðvitað ekki svo, mörg mál og ekki síður stór hafa áður komið upp. Það sem er sérstakt við þessa öldu hneykslismála nú er, hversu víðtæk spillingin virðist vera og hvað rotið forystulið sumra stjórnmálaflokka virðist vera. Það er engu líkara en æðstu embættismenn ríkis og bæja séu að verða sérstakt varnarlið sem verndi spillinguna, eins lengi og þeim er fært og svo lengi sem þeir eru ekki sjálfir flæktir í sjálfan glæpinn. Fyrir stuttu var t.d. þáttur í sjónvarpinu um brask með gjaldeyri og þar voru auðvitað kallaðir til þeir opinberu starfsmenn sem málið snertir og þeim gert að svara hvort um spillingu væri að ræða, svartamarkað með gjaldeyri og sitthvað fleira. Sennilega hafa flestir orðið nokkuð hissa þegar þeir heyrðu svör þeirra manna sem eiga að hafa eftirlit með því að ekki sé braskað með gjaldeyri. Ef þeir komu sér ekki undan að svara vegna þess að einhver annar embættismaður ætti að svara spurningunni, þá var svar þeirra svo óljóst að á því var ekkert að græða. Þeir sem horfðu á þáttinn hafa vafalaust velt því fyrir sér hvernig svona fávísir menn um þessi mál hefðu komist í þessar stöður. Hvort ekki hefði verið nær. ef ríkið ætlaði sér að ná einhverjum árangri í að sporna við gjaldeyrisbraski. að ráða einn bílstjóra á BSÍ í stað þessara vesalinga, sem ekkert virtust vita. En þarna erum við einmitt komin að kjarna málsins: er um að ræða raunverulegan vilja stjórnvalda að sporna við spillingunni og eru stjórnvöld yfirleitt fær um að gera nokkuð slíkt? Ekki bara vegna þess að starfsliðið er sumt meira og minna flækt í málin, heldur líka það að(og það er aðalatriðið) æðstu embættismenn hins opinbera eru venjulega fulltrúar einhvers stjórnmálaflokks sem ekkert kærir sig um að upp komist um svindlið. Spillingin er því ekki aðeins einstakir aðilar sem hafa látið freistast til að krækja sér í aukaskilding heldur komast margir þeirra upp með allskonar vafasöm viðskipti vegna pólitískrar stöðu sinnar. Um þetta mætti nefna mörg dæmi en það sem er kannski nýjast og mönnum í fersku minni er hvernig utanríkisráðherra notaði stöðu sína til að fá hagstæðustu lán sem um getur. Vegna hárrar stöðu sinnar og pólitísks mikilvægis var málið þaggað niður og hið fræga samtryggingarkerfi flokkanna var látið sjá um að allt liti eðlilega út. Á þessu sjáum við að það er hvorki hægt að treysta stjórnmálaflokkum né embættismönnum hins opinbera til að gera raunhæfar ráðstafanir t.d. í jafn litlu og í raun lítilfjörlegu máli og gjaldeyriseftirlit er. Ef við ættum að geta treyst þeim fullkomlega þá er auðséð að slíta verður bein tengsl þeirra við stjórnmálaflokkana og þar af leiðandi óbein tengsl þeirra við atvinnurekendur og fjármálabraskara, er eru hinir raunverulegu gjaldeyrisbraskarar. Þetta verður ekki gert með núverandi kerfi þar sem embættismenn eru valdir af stjórnmálaflokkum úr eigin röðum. Þessu verður að breyta og gefa almenningi meiri kost á eftirliti og ákvörðunartöku í sambandi við opinber embætti. Það er mikið rætt um prófkjör, en enginn ræðir um að kjósa opinbera embættismenn, sem væri þó eitthvað sem máli skiptir hvað varðar aukið eftirlit og lýðræði í þjóðfélaginu. Ástæða þess að ekki er rætt um það sem raunverulega máli skiptir er einmitt hvað spillingin er víðtæk og hvað hún tekur til margra. Almenningi er að verða ljóst smátt og smátt að um leið og farið er að hreyfa við einu máli hefur annað komið í kjölfarið svo að engu er líkara en gjörvöll yfirbyggingin virðist vera gegnumrotin. Að treysta þessu spillta ríkisvaldi fyrir einhverju róttæku gegn spillingunni væri sama og ætlast til að það græfi undan sjálfu sér. Til að gera raunhæfa hluti verður því að koma til nýtt afl og nýtt skipulag sem gerir ráð fyrir raunverulegu eftirliti almennings.

framhald af baksíðu

# Er hægt að hagnast á Jólunum?

Því samkvæmt kenningu hinnar "helgu" bókar (eða svo segja prestarnir) eru jólin til þess að færa fólki hinn eina og sanna frið og ekki fæ ég séð að hinn fullkomni friður fáist af skrauti. En hverjir öðlast þá frið af jólaskrauti? Við hljótum að beina okkur að börnunum sem taka eftir jólaskrauti annars vegar og að verslunarkapítalistunum sem setja það upp hins vegar því svarsins hlýtur að vera að leita hjá öðrum hvorum aðilanum.

Börn eru ekki fær um að skilja boðskap kristninnar um jólin nema hann sé settur fram á einfaldaðan og alltaf alrangan hátt- og þar með hljóta þau að leita friðarins (sem allir eiga að finna) í einhverju öðru. Fyrir jólin eru það jólasveinar, jólaskraut og fleira í þeim dúr sem vekur eftirvæntingu og tilhlökkun hjá barninu - en ekki frið- því að þau hafa enga ró í sínum beinum fyrr en í fyrsta lagi eftir að allt er afstaðið. Sem sagt: Jólaskrautið framkallar ekki frið í huga barnanna.

En hvað með kaupmennina? Öðlast þeir frið af jólaskrauti? Ætli svarsins sé að leita í svari að spurningunni: Hvers vegna setur hann það upp? Við skulum prófa þá leið og athuga hvort eitthvert svar standist.

a) Kaupmenn setja upp jólaskraut vegna kristinnar trúar þeirra - þeir eru komnir í kristilega jólastemmningu.

Hvað með gullkálfinn í gamla testamentinu? Er það ekki hliðstætt dæmi? Jú, það er aðeins stigsmunur en ekki eðlismunur á dæmunum. Auk þessa má benda á eftirfarandi: Í kaþólskum löndum er svo til ekkert tilstand í kringum jólin (þetta hef ég frá manni sem hefur verið á Spáni í nokkur ár og með tilstandi á ég við skrautsýninguna jól, kaupmennskubrjálæðið jól o.fl.þ.h) Enda þótt borgarastéttin sé ríkjandi í þessum löndum hefur kaþólska kirkjan þó enn-því miður- talsvert vald yfir hugum manna (t.d. þegar konur í Seveso-héraði í N. Ítalíu fæddu allar vansköpuð börn Eftir að eitur frá verksmiðju einni hefði borist út í umhverfið vegna þess að -að sögn páfa - fóstureyðingar eru gegn vilja guðs). En þegar Lúther (og fleiri ámóta karakterar) koma fram á sjónarsviðið var borgarastéttin að ryðja sér rúms. Í stað fáránlegra helgiathafna kaþólsku kirkjunnar vildi Lúther einfalda kirkjusiði (enda þótt þeir héldust ámóta fáránlegir - það liggur í eðli fyrirbærisins kristni) og kenningar hans tók hin unga borgarstétt í flestum tilvikum upp á sína arma og notfærði sér t.d. þetta atriði um einföldun kirkjusiða til að fela eðli sitt - sem sé gróðafíknina, sem birtist í þessu tilfelli enn í dag sem viðbjóðslega hræsnisfullar auglýsingar og annað ámóta fyrir jól ár hvert...til að græða á jólunum En þeim (kaupmönnunum) er vorkunn, blessuðum. Þeir eru að fara eftir biblíunni: Ávaxtaðu þitt pund- og þinn dollar- og þína íslensku krónu, að sjálfsögðu.

Við erum nú búin að útiloka þann möguleika að kaupmenn hafi allt sitt tilstand fyrir jólin vegna kristilegrar jólastemningar.

b) Kaupmenn sýna sitt kristna eðli (svona rétt fyrir jólin) með því að benda fólki á að í þessari búð sé best að gera jólainnkaupin svo að fólk fari ekki villur vega í þeim efnum og sé þar af leiðandi ekki að stressa sig á jólunum meir en þörf er á. Og þeir eru meira að segja svo almennilegir, blessuð skinnin, að þeir gefa kost á jólaskrauti, jólasveinum, grýlum leppalúðum og öðrum álíka varningi handa börnunum til að skemmta sér við meðan foreldrarnir gera jólainnkaupin... eftir jólaauglýsingunum. Eru þeir virkilega svona góðir, verslunarkapítalistarnir?

Nei, kæru lesendur, það eru þeir því miður ekki. Því að með öllu sínu jólaauglýsingaflóði (til jóla auglýsinga telst allrahanda jólaskraut því þar sem það er mest laðast börnin að, og þar með foreldrarnir, sem þýðir aukin viðskipti fyrir eiganda viðkomandi verslunar) æsa þeir fólk upp í að kaupa og kaupa ... þessa jólagjöf - nei, heyrðu- hefði þessi ekki verið betri???- jæja, við kaupum hana þá bara líka og gefum hana með.... og svo koll af kolli(þetta gildir líka-um jólamatinn) og með þessu er fólk komið inn í vítahring, sem mjög erfitt er að losna úr. Og eftir því sem árin líða verður þetta að vana-jafnvel að dópi: Að kaupa sem mest fyrir jólin. Það er slæmt að þurfa að viðurkenna þessar staðreyndir, en prófið að halda reikning yfir allt sem þið kaupið yfir hátíðarnar og skoðið útkomuna eftir áramótin. Ég er hræddur um að jafnvel þeim hagsýnni brygði í brún.

Um vítahringinn sem ég nefndi áðan má bæta við: Um miðjan nóvember síðastliðinn langaði mig skyndilega til að gefa konu minni og syni einhverjar óvæntar gjafir (átti ekkert skylt við nein hræsnisjól), hratt hugmyndinni í framkvæmd- og fékk : af hverju beiðstu ekki til jóla, af hverju ertu að þessu núna þegar jólin eru að koma? Svona vel hefur "blessuðum" kaupmönnunum tekist að koma sínum hræsnishugsunum inn hjá fólki.

c) Þar með höfum við einnig útilokað kristið eðli kaupmanna sem ástæðu uppsetningar jólaskrauts. Og í báðum tilfellunum (a og b) höfum við alltaf strandað á sama skerinu: Gróðafíkninni. Það er þannig síðasta úrlausnin á vandamálinu- að kaupmaðurinn sé að þessu tilstandi með jólaskraut og fleira vegna þess að hann sjái gróðavon út úr öllu saman. Kaupmaðurinn (sem aðrir kapítalistar) fær ekki þrifist nema hann bæti sífellt á auð sinn. Og hann hefur séð svo um að besti tíminn til þess er fyrir jólin. Hann notfærir sér þannig þann þátt mannlegs eðlis að vilja gleðja sig og sína- og hann notfærir sér einnig börnin- til að auka á auðsöfnun sína... og hann velur sér jólin, hátíð sem samkvæmt teoríunni er haldin til að fagna fæðingu frelsarans (hvað skyldu margir kaupmenn frelsast um þessi jól?) sem sumt fólk trúir á af heilum hug (það fólk tilheyrir sjaldnast prestastéttinni), til þess að hrinda saurugum hugsjónum sínum í framkvæmd.

En upphaflega var spurt hverjir fá frið af jólaskrauti. Þar sem við erum nú búin að finna tilganginn með uppsetningu þess hljótum við að sjá að það er einhver annarlegur friður sem verslunarkapítalistarnir eru að sækjast eftir. Og hvers konar friðþæging hugans er það að nota sér þann þátt mannlegs eðlis sem bent var á áðan til að bæta á peningahrúgu sem var þó allt of stór fyrir?
Ég held að rétt sé að láta hverjum og einum það eftir að skilgreina sjálfur þessa furðulegu tegund af frið... sem fæst af jólaskrauti.

Olga Guðrún

# BÚRIÐ




Olgu Guðrúnu Árnadóttur er margt til lista lagt, og nú fyrir jólin var gefin út bók eftir hana hjá Máli og Menningu. Skólakerfið er skotspónn bókarinnar, enda má segja að nafngift bókarinnar "Búrið" lýsi vel því kerfi. Bókin er einstaklega lifandi og raunsæ, enda sýnir hún ljóslega hvernig skólakerfið er uppeldistæki í þjónustu ríkjandi auðstéttar. Ekki ber að líta á þessar línur sem tæmandi ritdóm, en þeim er þetta skrifar finnst bók Olgu vera svo mikilvægt framlag til skilnings á því menntakerfi er við búum við að enginn byltingarmaður má sleppa því að lesa bókina.

## HAFIÐ SAMBAND VIÐ KOMMÚNISTAFLOKK ÍSLANDS M-L

- Miðstjórn og ritstjórn Stéttabaráttunnar. sími: 27810 og pósthólf 1357, 121R. einnig í Rauðu Stjörnunni bókabúð. Lindargötu 15. Opið mánud.-föstud 15-18,30
- Akureyri: Jón Atli Játvarðsson. Hafnarstræti23.
- Hafnarfjörður: Fjóla Rögnvaldsd. Reykjarvíkurvegi 24.
- Hornafjörður: Skúli Waldorff. Silfurbraut 2.
- Ísafjörður: Kristinn Karlsson. Fjarðarstræti 7.
- Neskaupstaður: Messíana Tómasdóttir. Þiljuvöllum38.
- Snæfellsnes: Sigfús Almarsson. Hellisbraut 10 Hellissandi, og Gísli Hjaltason, pósthólf 63, Stykkishólmi,
- Suðurnes: Einar Jónsson Sólvallargötu 40c, Keflavík.
- Danmörk: Magnús Þorgrímsson. Börglum Kollegiet v.444 Börglumvej 2, 8240 Risskov.
- Svíþjóð: Kristján L. Guðlaugsson, Kämnärsvägen 3A:218. 222 46 Lund.

# Annáll Stéttabaráttunnar 1977

## Efnahagsmál í hnotskurn

Svipaðar aðgerðir eins og oft áður einkenndu allar ráðstafanir stjórnvalda síðastliðið ár. Helstu vopnin gegn fallandi gróðahlutfalli atvinnuveganna var óðaverðbólga og styrkir til atvinnuveganna voru fengnir með aukinni skattaálagningu á almenning. Samningar verkalýðsfélaganna voru lausir snemma árs en til að reyna nýjar baráttuaðferðir var ekki farið í verkfall heldur var beitt þrýstingsaðgerðum og yfirvinnubanni. Eftir að samningar höfðu tekist og allt virtist vera að komast í sömu kyrrstöðuna og áður, nema verðlagið sem aldrei hægir á sér, kom í ljós hjá VSÍ að samið hafði verið um of há laun. Þessu varð auðvitað að kippa í lag með styrkjum, sérstaklega til frystihúseigenda og skildra auðmanna. Þjóðin gat nú andað léttar, komið hafði verið í veg fyrir að aðalatvinnuvegur þjóðarinnar stöðvaðist. Það var því í rólegheitum hægt að halda áfram með Kröflu og önnur þjóðþrifafyrirtæki, sem happasæl efnahagspólitík þjóðarinnar byggist á. Þó kastaði nokkrum skugga á þetta vegna þess að BSRB fékk örfáar krónur ofan á fyrri laun sín, en ríkisstjórnin brá skjótt við og náði þessu inn aftur með auknum sköttum á verkafólki og bætti atvinnurekendum skaðann með nýjum styrkjum svo fyrirtækin stöðvuðust ekki einu sinni enn. Að vísu kom í ljós að þeir rúmlega tuttugu togarar sem ríkið hafði lánað fé til kaupa á voru mun ódýrari en útgerðarmenn höfðu sagt, en hvað með það, mismunurinn hefði hvort eð var lent í vasa þeirra sem styrkur fyrr eða síðar. Málið verður því látið niður falla enda eru flokksmenn allra flokka flæktir í málið, hvaðan eru t.d. togararnir hans Lúlla á Neskaupstað? Það hefur oft verið einn mesti höfuðverkur ríkisstjórna að skrá gengi íslensku krónunnar rétt en í ár hefur þetta verið leyst og þessi nýja aðferð er kölluð að láta krónuna fljóta. Auðvitað er þetta bara til að blekkja, krónan flýtur ekki heldur sekkur hún og það er það sem hún hefur verið látin gera síðastliðið ár. Eins og menn vafalaust vita sökkva hlutir mismunandi hratt en íslenska krónan hefur um langt árabil átt heimsmet í þessu og svo var líka í ár, en vegna dýptar sjávarins höfum við samt ekki náð botni enn en hljótum þó að nálgast hann brátt. Þannig hefur gangur efnahagsmála verið á liðnu ári, ausið hefur verið af nægtarbrunnum mannlegrar vinnu í botnlausa hít auðvaldsins, en þetta kerfi mun fyrr eða síðar kollsteypast í hringiðu kreppunnar. Eftir gleðina tekur sorgin við, en þá er aldrei að vita nema með nýju skipulagi eigi gleðin aftur eftir að ríkja. Þannig er framtíðin björt með harðnandi baráttu hins vinnandi manns gegn boðendum þess að "sælla sé að stela en gefa".

## ASÍ á líðandi ári

Krafan um 100 þúsund króna lágmarkslaun var sett á oddinn hjá forystu ASÍ í síðustu kjarasamningum. Hundrað þús. kr. talan kom fyrst fram á ASÍ þingi og var síðan samþykkt sem launakrafa í komandi samn. á kjararáðstefnu ASÍ. Var þessi krafa sett fram þvert gegn samþykktum margra stærstu aðildarfélaga t.d. Dagsbrúnar, ráðstefnu járniðn. manna og láglaunaráðstefnu Sóknar, en þar var krafan um lífvænleg laun og fulla vísitölutryggingu það sem berjast skyldi fyrir.

Þessi hundrað þús. kr. krafa hljómaði að vísu vel, en verkafólk veit betur því hún var aðeins endurtekning á fyrri starfsaðferðum ASÍ forystunnar. Undanfarin ár hafa nefnilega verið settar fram fallegar tölur en verkin tala líka best, krónutalan hefur aukist, kaupmáttur rýrnar stöðugt og verkafólk þarf eftir sem áður að afla þriðjungs framfærslutekna með yfirvinnu. Enda á flest það fólk sem situr í forystusætum verkalýðshreyfingarinnar lítilla eða engra hagsmuna að gæta með því vinnandi fólki sem því ber að hafa forystu fyrir í kjara- og hagsmunabaráttunni gegn borgarastéttinni. Í apríl veittu flest verkalýðsfélögin stjórnum félaganna verkfallsheimild og strax í byrjun jan. samþykkti verkalýðsfélag Akraness ályktun þar sem skorað var á stjórn ASÍ að beita sér fyrir raunhæfum aðgerðum, þrátt fyrir að kjarasamningum væru ekki útrunnir, þar sem verkafólk geti ekki lengur beðið eftir kjarabótum til að mæta gegndarlausum álögum stjórnvalda. Þrátt fyrir áfangahækkanir og rauð strik hafi kaupmáttur launa hraðminnkað og þrátt fyrir þættan hag atvinnuveganna og stórauknar þjóðartekjur.

Almennir félagar ASÍ voru orðnir langþreyttir á árlegri allsherjarverkfallssýningu forystunnar og komu margar tillögur fram á félagsfundum um nýjar baráttuaðferðir t.d. skipulögð skæruverkföll og yfirvinnubann er tæki gildi strax í apríl.

Samningar milli ASÍ og VSÍ stóðu síðan yfir í nokkra mánuði án teljandi árangurs. Skriður komst þó á viðræðurnar er hafnarverkamenn í Rvík riðu á vaðið og fóru í skæruverkfall og á eftir fylgdu hafnarverkamenn í Hafnarfirði, en síðan fleiri vinnustaðir í kjölfarið. Voru þessi verkföll algerlega skipulögð af verkamönnum sjálfum, án íhlutunar eða undir forystu ASÍ og komu illa við kaunin á atvinnurekendum vegna þess hve óvænt þau komu. Skæruverkföllin eru þó ekkert nýtt fyrirbrigði í baráttu verkalýðsins og hafa reynst árangursríkust er ná þarf fram stórum og smáum hagsmunamálum stéttarinnar. Þetta endurreista vopn verkafólks olli því ótta meðal atvinnurekenda og ASÍ kaus nú sem fyrr að bregðast ekki trausti þeirra og valdi því þægilegri aðgerðir með róttækum svip. ASÍ studdi ekki skæruverkföllin og hafa jafnvel nokkrir toppanna látið hafa eftir sér að þeir væru þeim andvígir.

Í stað hefðbundins allsherjarverkfalls var sett á yfirvinnubann 1. maí og síðan starfsgreina- og landsfjórðungaverkföll sem stóðu yfir einn dag og höfðu lítil áhrif þar sem þau voru tilkynnt atvinnurekendum með viku fyrirvara. Yfirvinnubannið raskaði framleiðslunni nokkuð, enda miðast hún við 55-60 stunda vinnuviku verkafólks. Yfirvinnubannið gerði það líka að verkum að fylgi kröfunnar um að hægt sé að lifa á dagvinnunni hefur stóraukist.

Helsti boðskapur samninganna var að minnka tekjumuninn í þjóðfélaginu og fannst ASÍ forystunni lausnin liggja í því að minnka bilið milli taxta í stað þess að ráðast á hinn raunverulega tekjumismun þar sem hann er fyrir hendi og hann er á milli verkafólks og atvinnurekenda. En í stað þess að ráðast á meinið og hefja baráttuna fyrir lífvænlegum launum, vísitölutryggðum og skattlausum þurftartekjum var lítilvægur taxtamismunur gerður að höfuðmáli og þar með hærri taxtar verkalýðsfélaganna gerðir ábyrgir fyrir því hve aðrir væru lágir, en þá staðreynd að konur hafa 50% lægri laun fylgdi ekki með í jafnlaunastefnunni. Í júní voru samningarnir bornir upp til atkvæða í félögunum og var hampað af forystunni. En þrátt fyrir mikla óánægju með árangurinn voru þeir samþykktir, þar sem verkafólk treysti sér ekki til að halda áfram aðgerðum í bili með óhæfa forystu ASÍ í fararbroddi. ASÍ forystan taldi samningana þá bestu er náðst höfðu um langt skeið, þó varð kauphækkunin helmingi lægri en krafan sem sett var fram. Full vísitölutrygging náðist ekki og samningstímabilið er nú 18 mán. í stað 12 eins og ætlað hafði verið. Kauphækkunin kom í krónutölum á laun í stað prósentuhækkana.

Þessir samningar hafa litlu breytt um hagi verkafólks. Yfirvinnuþrældómurinn heldur áfram, verðhækkanir dynja yfir, óbættar verkafólki þrátt fyrir stóryrt mótmæli ASÍ forystunnar, enda látið sitja þar við orðin tóm. Við höfum rekið okkur áþreifanlega á uppgjafar- og sáttfýsisstefnu forystunnar. Brýnustu verkefni verkafólks verða að vera þau að losa sig við þessa forystu og dragbýtur á hagsmunabaráttuna. Brýnustu kröfur okkar í hagsmunabaráttunni eru lífvænleg laun fyrir 40 st. vinnuviku með fullri og ófalsaðri vísitölu og að þurftartekjur verði skattlausar. Þessar kröfur eru sífellt að ná meira fylgi innan verkalýðshreyfingarinnar bæði á vinnustöðum, félagsfundum verkalýðsfélaganna og ráðstefnum.

## BSRB árið 1977

Í byrjun apríl sagði BSRB upp öllum kjarasamningum. Lögðu samtökin þá upp kjarakröfur sínar og voru þessar helstar:

1. kjarakröfur:

Lægsti launaflokkurinn, 1. fl. skyldi hafa 115.000. kr. í fyrsta þrepi og svo 5.000.- milli launaflokka. Launamunur á 1. og 2. þrepi hvers launaflokks, skyldi vera 10.000.- og 1. og 3. þreps kr. 15.000.- Þetta þýddi að launastiginn yrði aftur beinn, en áður höfðu hækkanir komið mest á lægstu og hæstu flokkana, en þeir fjölmennustu höfðu fengið minnst. (sjá töflu um fjölda í hverjum launaflokki). Þannig hefðu 70% af meðlimum BSRB getað lifað af 40st. vinnuviku. Enn fremur var farið fram á hækkun á yfirvinnuprósentu.

2. vísitölutrygging:

Farið var fram á að ófölsuð vísitala yrði reiknuð út mánaðarlega.

3. endurskoðunarréttur:

Samningar skyldu gilda í tvö ár samkvæmt lögum og var krafist endurskoðunarheimildar (verkfallsheimildar), ef ríkisvaldið framkvæmdi kjaraskerðingu á samningstímabilinu, eins og það er vant.

Verkfalli var frestað til 26. sept., þó svo að ríkisvaldið kæmi ekkert til móts við þessar sjálfsögðu kröfur. Það verður að segjast að frestunin var rétt ráðstöfun því að með því fékkst betri tími tilverkfallsaðgerða. Einnig var þá ákveðið að kauphækkunin skyldi gilda frá 1. júlí.

Ríkisvaldið lagði fram "sáttatilboð" 26. sept., sem bauð upp á 7,5% kauphækkun og féllst í engu á kröfur BSRB. Kosið var um "sáttatillöguna", eftir að hún hafði verið rækilega kynnt á mjög fjölmennum félagsfundum um land allt. 90% félagsmanna í BSRB höfnuðu þessum smánar kjörum og kusu að hefja verkfall. Íhaldið fór hamförum og gerði allt til þess að kljúfa samstöðuna sem hafði skapast. Tókst það í annarri tilraun að fá Starfsmannafélag Reykjavíkurborgar til að fallast á samninga, sem voru jafn slæmir og þeir höfðu hafnað viku áður. Verkfallsbrot og hótanir um brottrekstur urðu daglegt brauð. Til mótvægis við þessa skipulögðu tvö af stærstu félögunum í BSRB, opna fundi daglega, þar sem málin voru kynnt og fólk skráð á verkfallsvaktir. Var reynslan af þessum fundum mjög góð. Með þessum fundum opnaðist möguleiki til að ná til lítt virkra félaga og stuðla að aukinu lýðræði í félögunum.

Enn innan samningarnefndarinnar voru starfandi undanláttarmenn og báru þeir sigurorð að lokum. Var samþykkt málamiðlunartillaga, þar sem um engan endurskoðunarrétt var að ræða og fallið var frá megninu af kaupkröfum, hvað þá að eitthvað yrði úr vísitölutryggingunni. Verkfalli var þá aflýst og boðað til kosninga.

Samningarnir voru síðan samþykktir í félögunum. Nú var þáttaka mikið minni, eða 67%, þar af samþykktu 73% samningana, en 19% voru á móti. Í mótmælaskyni við samningana, skiluðu 5,5% auðu. Samningarnir skiluðu mestu til þeirra hæst launuðu að venju, en minnstu til fjölmennustu launaflokkanna.




Þetta línurit sýnir hvernig ríkisstarfsmenn skiftast í launaflokka. Könnunin nær yfir 6303 ríkisstarfsmenn og 2187 borgarstarfsmenn. Kemur að marka í ljós að 86% opinberra starfsmanna eru í 4-15 launaflokki. Þetta línurit hefur örugglega breyst töluvert við samningana í október, því að eitt af því sem náðist fram með verkfallinu var, að menn hækka hraðar upp í 1. til 5. flokki og einnig hjá kennurum í 10. til 13. fl. Hvað lægstu flokkana áhrærir, þá féllst ríkisvaldið frekar á að flytja menn úr neðstu flokkunum, en að hækka launin þar, svo þau laun yrðu ekki ASÍ - félögum að fordæmi. Hvað varðar breytingar hjá kennurum, þá voru þær gerðar í þeim tilgangi af hálfu ríkisvaldsins að ná fram klofning, því kennarar höfðu verið mjög harðir í baráttunni.

## Áskrifendur athugið!

RITNEFND HEFUR ÁKVEÐIÐ AÐ BREYTA ÁSKRIFTAVERÐI STÉTTABARÁTTUNNAR, FRÁ OG MEÐ ÁRAMÓTUM OG VERÐUR ÞAÐ ÞANNIG:

Lausasala kr. 80.-
Heilt ár eða 48 tölublöð Baráttuáskrift kr. 5.500.-
" " " " Venjuleg áskrift kr. 3.500.-
Hálft ár eða 24 tölublöð " " kr. 2.000.-
Erlendis, sent vikulega, 48tbl. kr. 7.000.-
Erlendis sent hálfsmánaðarlega (tvö blöð í einu) kr. 5.500.-

## 8.mars

Þann 8. mars gekkst Kommúnistaflokkurinn fyrir opnum fundi. Þar fluttu ræður þær Soffía Sigurðardóttir verkakona og Lilja Kristjánsdóttir afgreiðslustúlka, ennfremur var upplestur og söngur.

Eftirfarandi ályktun var samþykkt:

"Í íslenska auðvaldsþjóðfélaginu er konan kúguð á margvíslegan hátt. Auk þess sem verkakonan er arðrænd af atvinnurekendum, vinnur hún erfiða vinnu heima fyrir, sem engin laun eru greidd fyrir. Konur njóta ekki jafnréttis á við karla, til starfs, náms og launa, þó að lögin kveði á um það. Þess vegna er nauðsynlegt að efla jafnréttisbaráttu kvenna sem mest. Mikilvægur liður í því er, að berjast gegn frumvarpi um ný skattalög, sem liggur fyrir Alþingi, en þau verða þess valdandi að konur hrekjast burt af vinnumarkaðinum.

Baráttan fyrir frelsun konunnar er nátengd frelsisbaráttu verkalýðsstéttarinnar. Án kvenna verða engar þjóðfélagsbreytingar að raunveruleika. Þess vegna þarf að skipuleggja og efla jafnréttisbaráttu kvenna og endurvekja baráttuhefðir íslenskra verkakvenna.

Fullt jafnrétti til starfs, náms og launa.

Kvennabarátta er stéttabarátta."

## 1.maí

Eins og í fyrra stóð Baráttueining fyrir kröfugöngu og útifundi á 1. maí í ár. Svipaður fjöldi tók þátt í aðgerðunum og áður, en helstu kröfurnar voru voru um að fá "lífvænleg laun fyrir fjörtíu stunda vinnuviku" og eins gegn stéttasamvinnu ASÍ-forystunnar og kröfu um að gera verkalýðsfélögin að virkum baráttutækjum. Auk þessa voru margar kröfur tengdar hagsmunabaráttu verkalýðsins. Hvað varðaði önnur mál voru kröfur eins og "gegn allri heimsvaldastefnu"(sérlega risaveldanna USA og Sovét) eins líka stuðningur við ríki þriðja heimsins og frelsisbaráttu þeirra.

Seinna um daginn var svo haldinn fjölmennur innifundur þar sem fluttar voru ræður í tilefni dagsins og skemmtiefni flutt.

Það eina sem skyggði á árangur Baráttueiningar var að enn var við haldið þeim klofningi sem einkennt hefur 1. maí undanfarið og þó heldur meir nú en oft áður, því nú héldu EIKml sínar aðgerðir sér.

Baráttueining getur staðið fyrir mun breiðari samstöðu en nú varð raunin og í framtíðinni verður lögð á það meiri áhersla að ná sem mestri samstöðu um mikilvægustu málin og þá um leið að ná betur til verkafólksins á vinnustöðunum. Þetta var nokkuð reynt með 1. maí nefndum á vinnustöðunum en til að það beri verulegan árangur verður að hefja undirbúning mun fyrr. Allar líkur eru á að reynt verði betur að efla samstöðuna fyrir næsta 1. maí og ná þannig til mun breiðari hóps af fólki en áður. Þetta er sérlega mikilvægt ekki síst vegna þess að nú á næsta ári eru kosningar og því verður verkafólk að hrópa kröfur sínar hátt og snjallt. Baráttueiningin er frumskilyrði fyrir því að ná þeim fram.




Frá göngu Baráttueiningar 1. maí 1977
Mynd þessi birtist í Klassekampen málgagni AKP (m-l) í Noregi, 2. des. sl. og fylgdi hún grein um mikilvæga útlistun EIK(m-l) á heimsástandinu. (Foto Klassekampen)

## 21.ágúst

Í fyrsta skipti skeði það nú í ár að Samtök herstöðvaandstæðinga, tóku upp baráttu gegn drottnunarstefnu Sovétríkjanna. Þessi afstaða SHA er mikill sigur fyrir baráttuna gegn heimsvaldastefnu. Eftir nokkrar umræður og deilur ákváðu SHA að gangast fyrir mótmælastöðu fyrir utan sovéska sendiráðið, þann 21. ágúst, til að mótmæla innrás Varsjárbandalagsríkja inn í Tékkóslóvakíu 1968 og veru sovéska hersins þar. Kjörorð fundarins voru:

-Burt með heri Varsjárbandalagsins úr Tékkóslóvakíu.
-Styðjum frelsisbaráttu Tékka og Slóvaka.
-Burt með hernaðarbandalögin Ísland úr NATO, herinn burt.

Rúmlega 300 manns voru á fundinum.

Annar hópur stóð fyrir innifundi þennan dag, var það 21. ágúst-nefndin. Hún fór fram undir kjörorðunum gegn heimsvaldastefnu risaveldanna Bandaríkjanna og Sovétríkjanna. Mikil gagnrýni kom frá 21. ág. nefndinni, á SHA. Héldu blaðaskrif af því tilefni áfram í nokkra mánuði.

Nú er það verkefni marx-leninista, að fylgja eftir sigrum þeim sem náðst hafa á baráttunni gegn útþenslustefnu Sovétríkjanna. Sovétríkin teigja arðránsklær sínar víðar og tryggja sig í sessi með hernaðaraðstöðu, í nafni aðstoðar við frelsisbaráttu. Þessa nýju "heimslögreglu" verður að afhjúpa.

Því ætti það að vera lærdómur ársins 1977, að sameinast til harðari sóknar gegn heimsvaldastefnu Sovétríkjanna.

## 1.desember

Stúdentar héldu að venju fund á Háskólabíói í tilefni dagsins. Að þessu sinni varð umræðuefnið kvennréttindi, fyrir valinu. Var því haft samráð við Rauðsokkahreyfinguna og tóku félagar úr henni þátt í undirbúningsstarfinu. Var gefið út blað í tilefni dagsins og komu þar fram hin ýmsu sjónarmið manna í þessu máli Sjálf dagsskráin á 1. des. var unnin af hópum sem völdu sér ákveðin viðfangsefni og var dagsskráin því í raun niðurstöður af umræðum hvers hóps um sig. Þannig varð dagskráin dálítið sundurleit, það örlaði á feminisma í sumu, en aðrir héldu sig fast við samstöðu verkalýðsins og bandamanna hans. Í heild má þó segja að vel hafi til tekist og flestir hafi haft skynsamlega afstöðu í málinu.

En stúdentar voru ekki einir um aðgerðir þennan dag. Stofnuð var Frumkvæðisnefnd að aðgerðum þennan dag, undir kjörorðunum:

- Verjum sjálfræði Íslands.
- Gegn erlendri stóriðju.
- Ísland úr NATO, herinn burt
- Gegn báðum risaveldunum USA og Sovét.

Í fyrstu fréttum af nefndinni sagði að hún væri stofnuð til að ráða bót að því ófremdarástandi, sem ríkt hefur að stúdentar hafi einir staðið að aðgerðum á 1. des. Enn fremur að hún vildi gera 1. des. að baráttudegi fyrir þjóðlegum sjálfsákvörðunarrétti Íslendinga.

Það er rétt athugað hjá nefndinni að það er miður að 1. des. skipar engan sess, sem baráttudagur hjá alþýðu manna. En hins vegar er það ekki rétta aðferðin við að gera daginn að baráttudegi, að leita alls ekki til þeirra sem þó höfðu sýnt viðleitni til að halda deginum á lofti, heldur byrja starf sitt þvert á móti með árásum á þá. Það að stúdentar standi að aðgerðum þennan dag, þarf alls ekki að útiloka verkafólk frá aðgerðunum. Undirbúningur undir 1. des. aðgerðir stúdenta, var öllum opinn í þetta sinn. Því má telja að réttara sé að við hafa þá aðferð að fá vinstrimenn í háskólanum til að taka þetta mál, sjálfsákvörðunarréttinn, upp í samvinnu við aðra baráttusinna.

# Ýmsar hreyfingar




Frá göngu herstöðvaandstæðinga.

## Herstöðvaandstæðingar

Samtök herstöðvaandstæðinga gengust fyrir stórri kröfugöngu um miðjan maí. Gengið var frá Straumsvík niður á Lækjatorg og tók mikill fjöldi þátt í aðgerðunum, sem sannar enn einu sinni hina breiðu samstöðu sem SHA hafa náð. SHA stóðu auk þess fyrir fjölda annarra funda sem of langt yrði að telja upp og útgáfustarfsemi ýmis konar um allt land. SHA höfðu nú í fyrsta skipti uppi mótmælaaðgerðir vegna rússnesku heimsvaldastefnunnar með því að mótmæla innrás Varsjárbandalagsríkja inn í Tékkóslóvakíu 1968, með mótmælastöðu fyrir utan sovéska sendiráðið í Reykjavík. Vegna aðgerða þessara urðu nokkur blaðaskrif og reyndu ýmsir að sverta SHA vegna aðgerðanna Vegna þessa máls og þeirrar umræðu sem varð vegna 21. ágúst aðgerðanna hefur afstaða SHA skýrst og í dag er öllum ljóst að þau berjast gegn allri heimsvaldastefnu hvort sem hún kemur úr austri eða vestri. Samkvæmt venju var haldin Landsráðstefna samtaka herstöðvaandstæðinga til að ráða ráðum sínum og undirbúa starfið fyrir næsta starfsár. Að þessu sinni var ráðstefnan haldin í Festi Grindavík 15.-16. okt. Ráðstefnan tókst nokkuð sæmilega þrátt fyrir að hún væri nokkuð fámennari en oft áður. Mikill baráttuhugur ríkti og ákveðið var að í engu skyldi slá af á næsta ári, en miða aðalundirbúninginn að því að efla starf samtakanna og tengslin milli félaganna eins og frekast væri kostur. Næsta sumar (maí eða júní) á svo að halda stórar aðgerðir til að sýna raunverulegan vilja þjóðarinnar í þessu máli.

Þeimsem vilja taka þátt í hópastarfi SHA er bent á að hafa samband við skrifstofuna að Tryggvagötu 10, sími 17966.

## Baráttuhreyfing gegn heimsvaldastefnu

Ný samtök voru stofnuð 4. júní síðastliðinn nánar tiltekið á fulltrúaráðstefnu Víetnam-nefndarinnar (VNÍ), Þetta gekk þannig til að á þessari ráðstefnu var það álit flestra að VNÍ hefði tapað gildi sínu eins og hún væri, mikilvægara væri að stofna vináttufélag við Víetnam, en að halda gangandi VNÍ í sömu mynd. Það var því ákveðið að leggja nefndina niður en stofna í hennar stað almenn andheimsvaldasinnuð samtök. Þessi nýju samtök fengu nafnið Baráttuhreyfing gegn heimsvaldastefnu, en, þegar að því kom að fara að samþykkja stefnuskrá fyrir samtökin kom í ljós að þeim var ekki ætlað að berjast gegn allri heimsvaldastefnu eins og þó hafði verið tekið fram. Það átti sem sagt að undanskilja heimsvaldastefnu Sovétríkjanna og þá nýlendukúgun sem þeir stunda um allan heim. Við þetta sættu KFÍ félagar sig ekki og hafa því ekki tekið þátt í starfi nefndarinnar. Í vissum afmörkuðum málum t.d. í baráttu gegn heimsvaldastefnu Bandaríkjanna, geta félagar Kommúnistaflokksins þó samfylgt með Bgh. En hreyfingu sem dylur sósíalheimsvaldastefnuna í nafni baráttunnar gegn heimsvaldastefnu ber að fordæma og berjast gegn en í þess stað berjast fyrir samtökum sem fordæma alla heimsvaldastefnu og styðja þannig raunverulega alla þjóðfrelsisbaráttu.

## Landhelgissamtökin á árinu

Samtök þessi hafa lítið látið á sér kræla allt frá því að þau voru stofnuð. Þó hafa þau staðið fyrir nokkrum fundum og jafnvel reynt að fara af stað með undirskriftarsöfnun gegn samningum við útlendinga um veiðar innan landhelginnar. En vegna skipulagslegs veikleika og nokkurar einangrunar hefur árangurinn ekki verið neinn. Þessi samtök eru þó að nafninu til enn við lýði og á síðasta ári stóðu þau fyrir nokkrum fundum auk nokkurra yfirlýsinga t.d. um samninga við færeyinga, en afstaða samtakanna var að ekki hefði átt að semja við þá. Samtökin töldu að með samningum við færeyinga væri verið að opna leiðina fyrir almennum samningum við aðrar þjóðir um gagnkvæma veiðiheimild og þess vegna var hrint af stað undirskriftasöfnun til að mótmæla samningum. Þetta var snemma á árinu 1977 eða í mars. Það kom síðar í ljós að Samtökin höfðu metið þetta algjörlega rangt og engir frekari samningar voru gerðir á árinu um gagnkvæm veiðiheimildir.

# Ýmsar hreyfingar

## Palestinunefndin

Hópurinn sem fór til Palestínu stóð fyrst og fremst að undirbúningi að stofnun vináttunefndar og fyrir áróðri til stuðnings frelsisbaráttu palestínuaraba. Stofnfundur nefndarinnar var síðan ákveðinn 27. mars, en á þeim fundi voru samþykkt lög og stefnuskrá fyrir nefndina og auk þess kosin stjórn.

Skömmu eftir að nefndin var stofnuð eða seinast í apríl stóð nefndin svo að opinberum fundi. Á þessum fundi talaði einn erlendur gestur, fulltrúi PLO á norðurlöndum Daoud Kaloti.

Seinni part ársins hefur nefndin látið lítið á sér bera og ekki haldið neinn opinberar fund, en staðið fyrir lítilsháttar útgáfustarfi. Þess ber að geta að í upphafi ársins stóð palestínuhópurinn að sýningu á myndum og veggblöðum frá Palestínu í Gallerí Súm frá 22. feb. til 6. mars.

Palestínunefndin hefur nú hugsað sér að reyna að efla starfið og þá fyrst og fremst með aukinni þátttöku í umræðu um palestínumálið í fjölmiðlum eins og kostur er.

Þeir sem vilja taka þátt í starfi nefndarinnar geta haft samband við hana með því að skrifa til pósthólfs 4302 eða talað við Ástvald Ástvaldsson Engjaseli 69, sími hans er 75898.

## Grænlandsvinafélagið

Á Íslandi hefur um tíma verið gert svolítið til að styðja grænlendinga í baráttu fyrir sjálfstæði sínu. Þetta hefur þó verið gert af hinum sundurleitustu hópum sem ekki hafa haft með sér neitt sameiginlegt skipulag. Það var svo 13. okt. að í Reykjavík var stofnað fyrsta Grænlandsvinafélagið, sem hefur það meginmarkmið að stuðla að aukinni vináttu milli þjóðanna. Þó hafði frumvísir að grænlandsvinafélagi verið stofnað nokkru áður á Neskaupstað.

Félagar Grænlandsvinafélagsins telja að það sem grænlendingar þurfi á að halda í frelsisbaráttu sinni sé ekki síst vinátta og skilningur.

Félagið hefur staðið fyrir tveimur fundum og hugsar sér að standa fyrir öflugu starfi á komandi ári.

Þeim sem vilja taka þátt í starfinu og gerast félagar í Grænlandsvinafélaginu er bent á að hafa samband við formann þess Guðmund Þorsteinsson í síma 76241.

# Kína



Minningarhöll Maós Tsetungs á Torgi hins himneska friðar.

Árið 1977 hefur verið ár mikillar stéttabaráttu og mikilla sigra fyrir alræði öreiganna í Alþýðulýðveldinu Kína. Hápunktur í atburðarás ársins er án efa 11. þing Kommúnistaflokks Kína sem haldið var dagana 12.-18. ágúst í Peking. Þar var sigurinn yfir andflokksklíku "fjórmenninganna" staðfestur. Í ræðu sinni á þessu þingi sagði félagi Hua Kuo Feng formaður flokksins að sigurinn yfir andflokksklíku "fjórmenninganna" tákni endi fyrstu menningarbyltingu öreiganna sem staðið hefur yfir í ellefu ár. Jafnframt sagði hann að þetta táknaði engan veginn endalok stéttabaráttunnar á byltingarskeiði alræðis öreiganna í Kína. Hann lauk ræðu sinni með því að leggja áherslu á að örva þyrfti til dáða öll jákvæð öfl innan flokksins, hersins og þjóðarbrotanna til að treysta alræði öreiganna og byggja upp sósíalískt ríki. Sigurinn yfir andflokksklíku "fjórmenninganna" hefur einnig haft í för með sér stórstígar framfarir á sviði framleiðslunnar sem og öðrum sviðum. Gerðar hafa verið stórkostlegri áætlanir um mannvirkjagerð en nokkru sinni fyrr. Komið hefur til framkvæmda stórfelld launahækkun sem nær til 46% vinnandi fólks og er þar um lægslaunuðustu hópana að ræða. Og margt fleira mætti tína til varðandi þær miklu framfarir sem orðið hafa í kjölfar sigursins yfir andflokksklíku "fjórmenninganna". Í október var fullbyggt og opnað almenningi hin stórglæsilega minningarhöll um Maó Tsetung

Bygging þessi er til vitnis um hina miklu ást og virðingu sem kínversk alþýða ber í brjósti til þessa mikilhæfa leiðtoga kínversku byltingarinnar og uppbyggingar alræðis öreiganna, Hönd að verkinu lögðu sjálfboðaliðar úr öllum starfsgreinum og af öllum þjóðernum og víðs vegar að úr Kína. Það má því með sanni segja að kínversk alþýða hafi sýnt hina miklu samstöðu sína um stefnu Maó Tsetungs og alræði öreiganna með þessari stórkostlegu byggingu.

# Afríka





Frelsishreyfingar Angóla og Gínea - Bissau, í baráttu við portúgölsku nýlenduherrana á sínum tíma.

Á hinu liðna ári var Afríka í brennipunkti stéttaátakanna í heiminum. Þróunin í álfunni einkenndist af tvennu: Annars vegar eflingu baráttu alþýðunnar gegn kynþáttakúgun og öllum gerðum heimsvaldastefnu og hins vegar áframhaldandi sókn sósíalheimsvaldastefnunnar og aukinni íhlutun hennar í æ fleiri löndum Afríku. En jafnframt þessu hefur sósíalheimsvaldastefnan afhjúpað sig rækilega gagnvart þjóðum Afríku sem hinn nýi þjóðakúgari álfunnar.

### Zimbabwe og Azanía.

Á árinu hefur barátta þjóða Zimbabwe (Ródesíu) og Azaníu (Suður-Afríku) gegn fasískri kynþáttastefnu stjórna Vorsters og Smiths tekið stórt stökk fram á við. Í Zimbabwe hafa tvær sterkustu þjóðfrelsishreyfingarnar sameinast um hernaðaraðgerðir gegn hinni ólöglegu stjórn Ians Smiths og er vopnaða baráttan svo langt framþróuð að endanlegur sigur er í sjónmáli. Í Azaníu hefur hin virka andstaða verkafólks og skólafólks aukist og eflst og vopnuð barátta er einnig hafin. Fasistastjórn Vorsters hefur svarað fjöldabaráttunni með harðari kúgunaraðgerðum, svo sem með því að banna fjölda samtaka og blaða og enn frekar með fangelsunum, pyntingum og morðum. Hörðustu viðbrögðin vakti dauði stúdentaleiðtogans Steve Biko, sem myrtur var í fangelsi Vorsters. Jarðarför Bikos breyttist í volduga mótmælaaðgerð tugþúsunda fólks.

### Angóla.

Í Angóla er lítið fararsnið á herjum og ráðgjafaliði sósíalheimsvaldasinnanna. Kúbanir stjórna nú angólanska hernum og rússar sjálfir hafa tekið að sér að skipuleggja stjórnsýslukerfi ríkisins. Fleiri af fylgiríkjum Sovétríkjanna fá sinn bita af bráðinni, t.d. hafa austur-þjóðverjar tekið að sér að skipulagningu lögreglunnar og búlgarar fá að bjástra við landbúnaðarmál Angóla. Allt er þetta gert í nafni alþjóðahyggju öreiganna. Það er aftur á móti "hin alþjóðlega efnahagslega verkaskipting" sem veldur því að Sovétríkin fá að notfæra sér 88 prósent af fiskimiðum Angóla, meðan Angóla menn sjálfir fá í sinn hlut 12 prósent. Þegar hins vegar rússar vildu fá alla kaffiuppskeru Angóla upp í skuldir fyrir margháttaða "aðstoð" þá sló loks Ágústínó Netó, forseti Angóla, hnefanum í borðið og neitaði.

Vegna vissrar mótspyrnu Netó-armsins innan valdastéttar Angóla gegn sósíalheimsvaldasinnunum studdu Sovétríkin valdaránstilraun Nito Alves, sem talinn var foringi hörðustu sovétsinnana innan MPLA. Tilraunin mistókst og sitja Alves og fylgifiskar hans nú í fangelsi.

Vopnaða andstaðan gegn drottnunarsrefnu sósíalheimsvaldasinnana í Angóla hefur stóreflst á árinu og er nú svo komið að þjóðfrelsisöflin undir forystu Jónasar Sawimbi hafa stór landsvæði á sínu valdi. Fjöldi fyrrverandi stuðningsmanna MPLA hefur nú séð í gegnum "aðstoð" Sovétríkjanna og Kúbu og vinnur nú með þjóðfrelsisöflunum.

### Innrásin í Zaíre.

Í marsmánuði hófst innrás málaliða frá Angóla inn í Shaba-héraðið (áður Katanga) í Zaíre. Enginn vafi lék á því að þetta skeði með stuðningi frá kúbönum og rússum í Angóla. Vegna eindreginnar andstöðu Einingarsamtaka Afríkuríkja og skjótra viðbragða fjölda ríkja til hjálpar herjum löglegrar stjórnar Zaíre var þessari innrás sósíalheimsvaldasinnana hrundið.

### Norð-austur Afríka.

Árið hefur verið viðburðaríkt á norðausturhorni Afríku, í Erítreu, Eþíópíu og Sómalíu. Í ársbyrjun hófu þjóðfrelsishreyfingar Erítreu mikla sókn gegn eþíópíska stjórnarhernum og um svipað leiti frömdu sovétsinnaðir herforingjar undir forystu ofurstans Mengistu valdarán í Eþíópíu. Fljótlega eftir að hin nýja herforingjastjórn hafði vísað öllum bandarískum hernaðarráðgjöfum úr landi tóku sovésk vopn og kúbanskir ráðgjafar að streyma inn í landið í staðinn.

Aðfarir Sovétríkjanna í Eþíópíu urðu til þess að opna augu nágrannaþjóðar Eþíópíu, Sómalíumanna fyrir hinu rétta eðli "vinanna frá Moskvu". Sómalía hafði um nokkurt skeið verið í vinfengi við Sovétríkin og notið efnahags- og hernaðaraðstoðar þeirra. Að launum höfðu rússar fengið að byggja flotastöð í Berbera í Sómalíu. Stuðningur Sovétríkjanna við ógnarstjórn Mengistu í Eþíópíu hefur nú leitt til algerra vinslita Sómalíu og Sovétríkjanna og hafa allir sovéskir ráðgjafar nú verið reknir úr landi.

Um vorið 1977 höfðu bæði Fídel Castró, forsætisráðherra Kúbu og Podgorní, þá forseti Sovétríkjanna, verið á yfirreið um Afríku. Ræddu þeir báðir m.a. við ráðamenn í löndum norðaustur-Afríku um stofnun "and-heimsvaldabandalags" sem í áttu að vera Sovétríkin (!), Sómalía, Suður-Jemen, Djibuti og Eþíópía. Tillaga þessi virðist hafa hlotið slæmar undirtektir því svo mikið er víst, að nokkrum vikum seinna hittust fulltrúar frá Sómalíu, Norður- og Suður-Jemen, Djibuti, Súdan, Egyptalandi og Saudi-Arabíu og ræddu stofnun bandalags sem beita myndi sér fyrir friðlýsingu Rauðahafs og árvekni gegn íhlutunartilraunum risaveldanna.

Á síðari hluta ársins hafa hafist hörð átök í austurhluta Eþíópíu, þar sem býr fólk af sómalískum uppruna. Nú í árslok hefur þjóðfrelsishreyfing Vestur-Sómalíu stóra hluta Ogaden-héraðsins á valdi sínu. Þjóðfrelsishreyfingar Erítreu eru einnig langt komnar með frelsun landsins undan oki stjórnarinnar í Addis Adeba. Sú hrákasmíð nýlendustefnunnar sem ríkið Eþíópía hefur verið er því að leisast upp og kúgaðar þjóðir innan landamæra þessa gamla keisaradæmis öðlast langþráð frelsi. Krampakennd viðbrögð Sovétríkjanna og Kúbu til að stöðva þessa þróun munu lítt stoða.

# Sovétríkin 1977

Sovétríkin hafa fengið nýja stjórnarskrá á árinu. Þar er alræði verkalýðsstéttarinnar hafnað og í staðinn, er komið hið borgaralega slagorð "ríki alls fólksins"sem óneitanlega minnir á vígorð Sjálfstæðisflokksins. Í staðinn fyrir stjórn verkalýðsins á framleiððslunni sem og öðrum þáttum þjóðfélagsins þá er kominn pýramídi þar sem mest áberandi eru völd embættismanna og menntamanna, sem hampað er í hvívetna, jafnt í orði t.d. sem "hinum sönnu fulltrúum fólksins" sem og með allskonar forréttindum, en að baki þeim stendur hin nýja borgarastétt, sem togar sífellt í spottann. Í staðinn fyrir samstöðu verkalýðsins og bænda sem drifkraft þróunarinnar er einstaklingnum hampað á "super man" hátt, er minnir mjög á kenningar nasismans. Þetta birtist í framleiðslunni, þar semvöld verkalýðsins eru sýndarleikur einn, en völd forstjórans afgerandi. Þetta birtist einnig t.d. í skólakerfinu, þar sem allt miðast við að skapa séfræðinga, sem eru í nær engum tengslum við verkalýðinn eða bændurna. Í staðinn fyrir að efla samstöðu nemendanna, miðast skólakerfið við harða samkeppni þar sem aðeins þeir "hæfustu" (að mati stjórnvalda) komast áfram. Menntakerfið sem og vísindin almennt, eru skilin frá fólkinu, og sérfræðinga menntunin miðast við að skapa vélmenni, sem geta þjónað ákveðnu afmörkuðu hlutverki í stríðsvélinni eða á annann hátt þjónað Rússnesku heimsvaldastefnunni. Þetta erí hróplegri mótsögn við sósíalískt menntakerfi sem hefur það markmið að vísindin tengist og þjóni hinni vinnandi alþýðu undir forystu verkalýðsins. Allt þetta hylur nýja stjórnarskráin.

Sömu sögu er að segja frá flokknum, sem ekki einusinni formlega er verkalýðsflokkur, heldur "flokkur allrar alþýðu". Sem í reynd er stéttasamvinnuflokkur undir forystu hinnar nýju borgarastéttar. Minnir þetta ekki bara þó nokkuð á slagorð Sjálfstæðisflokksins, eða jafnvel á flokka fasismans? Hitler sagði víst "ein þjóð, eitt ríki, einn leiðtogi" Var það kannski eitthvað eitthvað þesshattar sem klíkan í Moskvu var að hugsa þegar flokksformaðurinn Brésneff bætti við sig forsetastöðunni núna á árinu?

1. janúar sendu andstöðumenn í Tékkóslóvakíu frá sér yfirlýsingu sem þeir nefndu Mannréttindi 77. Þessi yfirlýsing er svar við kúgun sovésku heimsvaldastefnunnar, og leppa þeirra, á tékkneskri alþýðu. En lýðréttindi jafnt sem öll viðleitni til sjálfstæðrar þróunar Tékkóslóvakíu, hafa verið barin niður með harðri hendi. Það sama er að segja um örlög flestra þeirra sem skrifuðu undir yfirlýsinguna. Margir hafa verið fangelsaðir aðrir hafa misst vinnuna, og sumir hafa neyðst til að flýja land. Eftir lögreglu yfirheyrslur og fangelsanir hafa sumir dregið sig til baka, en það hafa stöðugt nýir komið í þeirra stað, og í október höfðu 800 manns skrifað undir yfirlýsinguna

Þessi svör stjórnarinnar eru svona harkaleg, þrátt fyrir það að yfirlýsingin sé ekki nein pólitísk stefnuskrá sem beint sé gegn stjórninin, eða nein skipulögð andstöðuhreyfing sé að baki henni, heldur er aðeins farið fram á að þau mannréttindi sem lýst er yfir í stjórnarskránni séu virt.

En það er ekki aðeins í Tékkóslóvakíu sem andstaðan lætur að sér kveða. Það er einnig í Pólland. Austur-Þýskalandi Rúmeníu og Búlgaríu

Í Austur-Þýskalandi hefur andstaðan verið einna mest meðal mennatamanna og listamanna, sem eru í sáralitlum tengslum við verkalýðinn. Enda hefur stjórnin gert allt til að einangra þá, og ef annað hefur ekki dugað, þá hefur þeim verið vísað úr landi. En þrátt fyrir það er andstaðan mjög almenn sem kemur t.d. fram í því að ýmsir flokksfélagar sérstaklega af yngri kynslóðinni, hafa komið með mótmæli á ýmsan hátt Þetta er farið að valda stjórnvöldum miklum áhyggjum.

Bæði 1970 og 1976 skulfu stoðir fasismans í Póllandi. Í bæði skiptin var það samstaða og máttur verkalýðsins sem gat komið í veg fyrir gífurlegar kjaraskerðingar. Og 1970 urðu Sovétmenn að skipta um leppstjórn, eftir Gomúlka kom Gierek og lofaði hann gulli og grænum skógum, en spillingin og skipulagsleysi efnahagsmála var jafn mikið eftir sem áður, en áhrif verkalýðsins minnkuðu stöðugt. Eftir verkföllin 1970 voru verkfallsmenn ofsóttir, misstu vinnuna og sumir urðu að flýja land. Það sama skeði eftir verkföllin og mótmælin ´76. Kommúnistaflokkur Póllands m-l hefur barist ötullega í baráttunni gegn stjórninni. Auk þess var mynduð eftir verkföllin ´76 svokölluð Varnarnefnd verkalýðsins. Vegna öflugrar baráttu tókst í sumar að fá lausa þá síðustu sem sátu í fangelsum eftir mótmælin ´76.

Þó að baráttan í ár hafi ekki verið eins kröftug og í fyrra, þá hefur hún verið geysi hörð.

7. maí var ungur stúdent myrtur í fangelsum stjórnarinnar, vegna þess að hann var á vegum Varnarnefndar verkalýðsins að safna fé til styrktar verkamönnunum sem voru fangelsaðir í fyrra. Morðið olli kröftugum mótmælagöngumog blysför við við jarðarförina. En því fylgdu handtökur á 3 af leiðtogum Varnarnefndarinnar, og voru þeir ákærðir fyrir að hafa æst til pólitískra uppþota. Þeir voru voru síðan látnir lausir í júlí.

Í Sovétríkjunum hefur andstaðan einnig verið öflug. T.d. voru allmargir handteknir eftir kröftug mótmæli í Litháen þann 10. október þegar fjöldi fólks fór um göturnar og velti lögreglubílum og kveikti í þeim, reif niður borða og spjöld.



Sovésk herskip.



Sovéskar eldflaugar í Kaíró : skjóta niður franskar þotur Gaddafis.



Sovéskir skriðdrekar á hersýningu í Sómalíu : berjast við bandaríska vígdreka sovétvinsamlegra eþíópíumanna.

Oft rugluðust stuðningsmenn Sovétríkjanna í ríminu vegna vopnasölu þeirra.

# Evrópukommúnisminn

Hinn svokallaði evrópukommúnismi, hefur verið ofarlega á baugi þetta ár. Keppast margir við að dásama þetta fyrirbæri og aðrir sem minna þekkja til sjá þarna nýja von þ.e. lýðræðislegann kommúnisma sem ótrauður er að gagnrýna fasismann í Sovét. Og sem dæmi um það nefna menn þær deilur sem hafa verið á milli rússa og "kommúnistaflokka" S- Evrópu sem komu opnast fram í því að Carillo formanni spánska "kommúnistaflokksins" var neitað um að halda ræðu í tilefni af 60 ára afmæli októberbyltingarinnar í Moskvu.

Það er rétt að þeir hafa að vissu leyti gagnrýnt lýðræðisskortinn í A-Evrópu. En sjaldnast hefur sú gagnrýni rist djúpt og að mestu leyti tekið mið af baráttu mennta og listamanna, fyrir einstökum takmörkuðum mannréttindum. En minna hefur farið fyrir baráttu fyrir réttindum verkafólksins.

Þeir hafa ekki viljað sætta sig við taumlausa valdagræðgi og ofstopa sovésku heimsvaldastefnunnar. Þeir hafa viljað móta sína eigin sjálfstæðu stefnu án afskipta rússa. En í reyndinni er stefna þeirra allsekki svo frábrugðin stefnu rússa, þó að stundum birtist hún með öfugu formerki.

Í febrúar 1976 hafnaði franski flokkurinn hugtakinu "alræði öreiganna" og að sjálfsögðu valdbyltingunni um leið. Jafnframt var flokkurinn lýstur sameinandi alls fólksins. Þetta minnir óneitanlega á kenningu Krússjefs um friðsamlega byltingu og nýju stjórnarskrána í Sovét.

Á sama tíma og alþýða Spánar er að rísa til baráttu gegn áratuga fasiskri kúgun afneitar Carillo og flokkur hans valdbyltingunni og lýsir því yfir að hið nýfengna "borgaralega lýðræði" á Spáni sé þeim nægjanlegt. Þeir leggja megináherslu á að þeir fái að bjóða fram og reyna að sanna spænskri borgarastétt að þeir séu ábyrgir lýðræðissinnar.

Þeir telja að Spánn eigi að vera í NATO og vilja leyfa bandarískum her að hafa heratöðvar á Spáni. Flokkurinn afneitar fjöldabaráttunni og leið byltingarinnar, en tekur þess í stað upp stuðning við borgarastéttina og heimsvaldaatefnuna.

Eftir þingkosningarinar í júní í fyrra, lýsti ítalski kommúnistaflokkurinn því yfir að þeir myndu gera sögulega málamiðlun við kristilega demókrata og borgarastéttina í því skyni að bjarga efnahag Ítalíu. Eins og mörg undanfarin ár, þá hefur verið mikil ólga í Ítalíu, jafnt verkafólk sem menntamenn og þá sérstaklega ungafólkið, atvinnulaust jafnt sem námsfólk. Og einnitt það hefur sérstaklega látiðí sér heyra. Það hafa verið öflugar mótmælagöngur og nemendur hafa lagt undir sig suma skóla. En þessu hefur verið svarað harðri hendi af hálfu lögrelgunnar með (þó að margir teldu það ótrúlegt) dyggum stugningi Ítalska "kommúnistaflokksins.

Eftir miklar stúdentaóeirðir í júní hefur stjórnin ákveðið að setja hörð lög gegn pólitískum andstæðingum borgarastéttarinnar. Nánar tiltekið þeim sem vilja ekki sætta sig við að sitja við orðin tóm heldur sýna andstöðu sína í verki með allt frá friðsamlegum mótmælum til þeirra sem vilja kollvarpa auðvaldsskipulaginu með byltingu. Samkvæmt þessum nýju ógnar lögum á að auka símahleranir, húsrannsóknir án skriflegra heimildar og halda má fólki í 48 tíma án þess að nokkur ákæra komi fram.

Þessi fasisku lög hefðu aldrei komist í gegnum þingið ef "kommúnistaflokkurinn" hefði sett sig gegn þeim. En hann var þvert á móti alls ekki mótfallinn þeim. Hann lýsti velþóknun sinni á þeim og lýsti þeirri ósk sinni að lögreglan gerði út af við "Maóistana".

framhald af forsíðu

# Aronskan: Siðleysi íhaldsins

vegna amerískra hagsmuna og í krafti þess á að krefjast greiðslu.

Allt þetta þykist íhaldið vitanlega vera að gera vegna hagsmuna almennings.

Það er annars vegar afneitun aronskunnar á "verndarhlutverki hersins" og hins vegar ótti við að missa forréttindastöðu um hermangið sem ræður andstöðu Geirs Hallgrímssonar við aronskuna.

Það er ekki það að íhaldsmenn í kringum Geir Hallgrímsson standi á einhverjum "þjóðlegum stalli" en hinir séu óþjóðhollir. Orðið þjóðhollur hæfir engum þeirra. Þeirra eina markmið er gróði. Og málið snýst um það hvaða klíka eigi að græða. Málið á sér líka dýrkeyptari afleiðingar. Aronskan gerir Ísland fjárhagslega háðari Bandaríkjunum og veikir þar með enn meira sjálfstæði landsins. Hún er að því leyti siðlausari pólitík en pólitík klíku Geirs og SÍS-auðherranna að hún játar þjónkun sína við amerískt auðvald opinskátt.

Aronskan fékk mikinn meirihluta í skoðanakönnun íhaldsins. Við það gripu aðrar valdaklíkur íhaldsins tækifærið og færðu fram málamiðlun. Málamiðlunin er að herinn borgi sama okurverð fyrir bensín og Íslendingar, skatta og skyldur, éti jafn dýrt kindakjöt og Íslendingar og málamiðlunin vill að herinn greiði "framkvæmdir í þágu varna landsins". Framkvæmdir þessar eru vegagerð, bryggju og brúarsmíði. Nú á íhaldið bara eftir að fá NATO til að "sanna" hernaðarlegt mikilvægi vegagerðar á Íslandi og þá geta íslenskir auðherrar farið að græða. Málamiðlunin er sama og aronskan, bara með öðruvísi rökstuðningi. Aronskan hefur verið puntuð með "þjóðlegu" skarti.

Það er ekki tilviljun að íhaldið lítur þessa lausn hýru auga nú. Íslenska auðvaldið er ófært um að stjórna landinu og tryggja fólkinu mannsæmandi lífskjör vegna sídýpkandi kreppu, en hefur komið auga á skjótfenginn gróða og vill fórna hverju sem er fyrir hann.

Þessi sókn afturhaldssömustu, fasísku aflanna, kallar á stórkostlega eflingu starfs herstöðvaandstæðinga. Við verðum að koma í veg fyrir framkvæmd aronsku. Við verðum einnig að vera á verði gagnvart úrtölum Alþýðubandalagsforystunnar.

# Hin tíu megintengsl

*eftir Mao Tse-tung*

"Hin tíu megin tengsl" flutti félagi Maó Tse-tung upphaflega sem ræðu á fundi pólitískrar framkvæmdanefndar miðstjórnar Kommúnistaflokks Kína 25. apríl 1956.

Með því að birta ræðuna sem greinaflokk vill Stéttabaráttan gefa lesendum sínum tækifæri til að kynnast nánar þessum mikla leiðtoga kínversku þjóðarinnar

Hér dregur Maó Tse-tung saman reynslu Kínverja sjálfra sem og einnig reynsluna af Sovétríkjunum í sósíalískri byltingu og sósíalískri uppbyggingu. Á meistaralegan hátt dregur hann þetta saman í "tíu megin tengsl" og setur fram hugmyndir sem eru undirstaðan í stefnu sem lögð er til grundvallar í að byggja sósíalismann með stórstígari, hraðari, betri og meiri efnahagslegum árangri, stefna sem fellur að aðstæðum í Kína.

Stéttabaráttan er einnig sannfærð um að lesendur blaðsins geti marga lærdóma dregið af lestri þessa greinaflokks til brúks í eigin starfi að íslensku byltingunni.



Mao Tse-tung

## VI. TENGSLIN MILLI HAN ÞJÓÐARINNAR OG ÞJÓÐERNISMINNIHLUTANNA.

Stefna okkar í samskiptum Han-þjóðarinnar og þjóðernisminnihlutanna er tiltölulega heilbrigð og hefur öðlast stuðning þjóðernisminnihlutanna. Við leggjum áherslu á andstöðu gegn Han-stórþjóðarstefnu. Smáþjóðastefnu verður einnig að hafna, en almennt talað leggjum við ekki áherslu á það. Í landi okkar eru þjóðernisminnihlutarnir ekki fjölmennir, en þeir byggja víðáttumikil landsvæði. Han-fólkið er 94% af íbúunum, yfirgnæfandi meirihluti. Ef Han-stórþjóðarstefna væri ráðandi og þjóðernisminnihlutarnir beittir órétti, væri það mjög slæmt. Og hverjir ráða víðfemari landssvæðum? Þjóðernisminnihlutarnir byggja 50-60% landsins. Við segjum að Kína eigi víðfemt landssvæði, miklar auðlindir og fjölmarga íbúa. Raunverulega er það Han-þjóðin sem er stór og þjóðernisminnihlutarnir sem eiga víðfemt lands svæði og miklar auðlindir, að minnsta kosti eru allar líkur á að auðlindirnar í landi þeirra séu miklar.

Þjóðernisminnihlutarnir hafa allir lagt sitt af mörkum í sköpun kínverskrar sögu. Hin risavaxna Han-þjóð er ávöxtur samruna margra þjóðerna, sem orðið hefur á löngum tíma. Á öllum öldum hafa afturhaldssamir ráðamenn, að megninu til af Han-þjóðerni, sáð tortryggni meðal hinna ýmsu þjóðarbrota og sýnt þjóðernisminnihlutunum yfirgang. Það er ekkert auðfengið, að afmá áhrif þessa á skömmum tíma, jafnvel meðal alþýðunnar. Því verðum við að koma til leiðar, víðtækri og varanlegri uppfræðslu liðsmanna og fjöldans í öreigasinnaðri þjóðernispólitík okkar og leggja áherslu á, að tengslin milli Han-þjóðarinnar og þjóðernisminnihlutanna verði títt endurmetin. Eitt slíkt endur mat var framkvæmt fyrir tveimur árum og nú ætti annað að koma til framkvæmdar. Ef tengslin reynast vera óeðlileg verðum við að meðhöndla þau í fullri alvöru og ekki einvörðungu í orði. Við verðum að gera rækilega könnun á hvers konar hagsýslu- og fjármálakerfi hæfi þjóðernisminnihlutasvæðunum best.

Við verðum að hjálpa þjóðernisminnihlutunum að þróa efnahag sinn og menningu á einarðan og virkan máta. Í Sovétríkjunum eru tengsl rússnesku þjóðarinnar og þjóðernisminnihlutanna mjög óeðlileg. Af því verðum við að læra. Andrúmsloftið, merkur jarðarinnar og auðævi í iðrum jarðar eru allt mikilvægir þættir í uppbyggingu sósíalismans. En enginn efniskenndur þáttur verður nýttur og hagnýttur án hins mannlega þáttar.

Við verðum að ala á góðum samskiptum milli Han-þjóðarinnar og þjóðernisminnihlutanna og styrkja einingu allra þjóðerna í sameiginlegu átaki við byggingu hins mikla sósíalíska föðurlands okkar.

framhald af forsíðu

## Þeir stóru sleppa

því ekki dæmdir.

Þetta er ekki í fyrsta skiptið sem slík mál eru látin niður falla vegna þess að lögin telja þau fyrnd. - Og þetta verður örugglega ekki heldur í síðasta skiptið, að slíkt kemur fyrir. Þess vegna hljótum við að krefjast þess, að fyrningarákvæðum laganna verði þegar breytt. Það mun þó varla auðsótt, því á meðan borgarastéttin situr við völd hér á Íslandi mun hún örugglega sjá til þess, að lögin séu samin og túlkuð henni í hag.

Þegar launafólk er staðið, að jafnvel smávægilegu svindli og brotum á gjaldeyris eða tollalögum, eins og til dæmis sjómenn á farskipum, er þeim ætíð refsað fyrir verknaðinn. Er þess oftast einnig rækilega getið í fjölmiðlum hvaða menn þar hafi verið að verki. Þess verður því að krefjast, að þegar verði birt nöfn þeirra einstaklinga eða félaga sem að áðurgreindum kaupum stóðu og að rækilega verði gerð grein fyrir sök hvers og eins. Annað er aðeins skjalfesting á því, að smákarlarnir eru teknir - en hinir stóru sleppa.

framhald af baksíðu

SAMEIGINLEG BARÁTTA ARABA-OG AFRÍKURÍKJA.

Þjóðfrelsishreyfingar Afríku og Arabalanda hafa ekki aðeins gert sér grein fyrir sams konar hindrunum og samsærum gegn sér. Þær hafa líka haslað sér sama völl í baráttunni gegn kynþáttakúgurunum sem undir verndarvæng amerískrar heimsvaldastefnu hafa neitað þeim um þjóðlegan rétt sinn.

(Allt þýtt úr Palestine, PLO Information Bulletin).

# Um hvað er að velja, ef Dagsbrún á að verða öflugt baráttutæki

framhald af forsíðu



agsstjórn Dagsbrúnar hafi ekki sterk tengsl við verkamennina, þá hefur hún stuðning stærstu stjórnmálaflokkanna og dagblaða þeirra. Auk þess stendur peninga valdið að baki þeirra ásamt uppkeyptum verkalýðsforingjum annars staðar í verkalýðshreyfingunni. En verkamenn í Dagsbrún eru nú æ betur að gera sér grein fyrir því hlutverki sem forystan leikur, og taka upp baráttu í betri veru. Fjölmargir félagsmenn ræða nú í fullri alvöru að bjóða fram lista gegn núverandi stjórn í kosningunum í lok janúar. Búið er að semja málefnagrundvöll er ræddur er á vinnustöðum á Dagsbrúnarsvæðinu. Ef baráttuviljinn er nægur og verkamenn geta komið sér saman um lista er túlki vilja félagsmanna, verður um framboð að ræða. Kosningagrundvöllurinn sem nú er til umræðu er ekkert endanlegt plagg, fullvíst er að dagsbrúnarmenn eiga eftir að koma með margar mikilvægar ábendingar og breytingar. Hann fer því hér á eftir í heild sinni.

### Félagsmál.

Koma verður á virkara lýðræði er byggt er á almennri þátttöku verkamanna í Dagsbrún. Það er grundvöllurinn fyrir sterkara verkalýðsfélagi og góðum árangri í hagsmunabaráttu félagsmanna. Auka verður félagsfundi og hafa þá a.m.k. mánaðarlega. Leggja verður mikla áherslu á vinnustaðafundi verkamanna og forystu félagsins. Gefa verður út félagsblað er kemur út reglulega til allra félagsmanna auk minni fréttabréfa þegar þörf krefur. Stjórn og trúnaðarmannaráð félagsins verða að vera mun virkari en verið hefur. Öllum félagsmönnum er heimilt að skrifa í málgagn félagsins og láta þar skoðanir sínar í ljós. Stjórn og trúnaðarmannaráð verða að vera til mikilla muna virkari en verið hefur.

### Kjaramál og baráttuaðferðir.

Brýnustu kröfur verkamanna eru:

Lífvænleg laun fyrir 40 stunda vinnuviku með fullum vísitölubótum.

Dagvinnutekjur verði skattlausar, en í þess stað verði fyrirtæki skattlögð.

Tryggja verður atvinnuöryggi.

Vinna verður gegn auknum afskiptum ríkisvaldsins af kjaradeilum.

Tryggja verður að ákvarðanataka og virkni félagsmanna verði ekki skert með aukinni miðstýringu ASÍ.

Kjarakröfur verður að móta af félagsmönnum á vinnustöðum, þannig að almennir félagsmenn finni að þeir eru þátttakendur og gerendur baráttunnar.

Kröfur okkar taka eingöngu til hagsmuna verkafólks, en ekki eiginhagsmuna og greiðslugetu atvinnurekenda. Það verða ávallt að vera sterk tengsl milli forystumanna Dagsbrúnar og félagsmanna. Þegar barátta á sér stað er mikilvægt að hafa opið hús, öflugar verkfallsvaktir eða fundi á vinnustöðum þar sem forystumenn skýra út gang samningamála. Samninganefnd félagsins á ávallt að skýra út gang mála, þrátt fyrir að atvinnurekendur hafi hingaðtil þvertekið fyrir að slíkt væri gert. Tryggja verður að sérsamningar Dagsbrúnar við atvinnurekendur séu eingöngu til ákvarðanatöku þeirra verkamanna er eftir þeim vinna. Réttindi er áunnist hafa verða aldrei eftir gefin.

Tryggja verður gott samstarf forystumanna samtaka launafólks og samstöðu félaganna í hagsmunamálum verkafólks.

### Stjórn og starfsmenn félagsins.

Stjórnin verður að vera virk og meirihluti hennar verður að vera á fjölmennum vinnustöðum. Hún á fyrst og fremst að sinna hagsmunum félagsmanna, og sá hluti stjórnar er vinnur á skrifstofum á eingöngu að sinna því starfi en ekki ýmiskonar öðrum embættum. Ýmiskonar nefndir er félagið þarf að hafa fulltrúa í eiga að vera skipaðar vinnandi verkamönnum, öðrum en þeim sem á skrifstofunni eru.

### Húsnæðismál.

Dagsbrún skal beita sér fyrir því að stórauknar verði íbúðabyggingar á félagslegum grundvelli, ekki aðeins í Breiðholti, heldur og víðar í Reykjavík. Verkalýðshreyfingin þarf að vinna að því að ódýrt og gott leiguhúsnæði sé byggt til afnota fyrir verkafólk. Þannig vinnum við best gegn fasteignabraski og verðbólgu er orsakast m.a. vegna uppsprengds verðs á íbúðum á frjálsum markaði.

### Lífeyrissjóðsmál.

Atvinnurekendur verða að víkja burt úr lífeyrissjóðum verkafólks. Beita verður hörðum aðgerðum við þá atvinnurekendur er trassa greiðslur í sjóðina. Grípa verður til mótaðgerða verkalýðshreyfingarinnar ef ríkisvaldið ætlar sér að ráðskast með sjóðina. Atvinnurekendur skulu engin lán úr þeim fá, skerði það á nokkurn hátt hagsmuni verkafólks. Að undangengnu skipulegu undirbúningsstarfi skal í framtíðinni hætta að lána úr sjóðunum á frjálsum markaði, en lána í þess stað til íbúðabygginga á félagslegum grundvelli. Sjóðirnir tryggi stórauknar bætur til ellilífeyrisþega. Tryggt verði að réttur maka til hluta látins félaga að sjóðnum verði fullur og eins sé um börn á framfæri fráfallins sjóðsfélaga að ræða.

### Orlofsmál.

Lögin sem kveða á um innheimtu Pósts og Síma á orlofi verkafólks hafa sýnt sig vera meingölluð, og eru þau mál í miklum ólestri. Tryggja verður lög þar sem hægt verður að beita atvinnurekendur hörðum aðgerðum ef þeir borga ekki orlof á réttum tíma. Þetta er ákaflega brýnt mál og verður að komast tafarlaust í gott horf.

### Aðbúnaður, hollustuhættir og öryggismál vinnustaða.

Verkamenn frá fjölmennum vinnustöðum skipi nefnd innan Dagsbrúnar til þess að fjalla um þessi mál og koma með tillögur um úrbætur. Verkalýðshreyfingin sinni starfi sínu innan öryggisráðs ríkisins er sett er yfir starfsmenn öryggiseftirlitsins. Gjörbreyta þarf mannaskipan og starfsháttum öryggiseftirlitsins þannig að farið verði eftir þeim lögum er það á að framfylgja. Öryggiseftirlitið þarf að starfa í nánum tengslum við verkamenn vinnustaðanna.

Markmið félagsstjórnar skal vera að framfylgja þessum stefnugrundvelli og sérhagsmunir pólitískra flokka skulu ekki settir ofar hagsmunum verkafólks.



Öreigar og kúgaðar þjóðir heims sameinist!

# Stéttabaráttan



Útg: Kommúnistaflokkur Íslands m-l.
47. og 48. tbl. 27.12.1977

STÉTTABARÁTTAN
-kemur út vikulega-
Sími: 27810.
Gíró: 27810-6.

Ábyrgðarm: Sigurður Ingi Andrésson.



# Er hægt að hagnast á jólunum?

Fyrir mörgum árum var sagt í sjónvarpsþætti: "Þetta eru þeirra kirkjuklukkur." Hér var átt við peningakassa kaupmanna og var sem sé gefið í skyn að hljómurinn í þeim fyrir jólin hljómaði sem ómþýð kirkjuklukknahringing í eyrum kaupmannanna. En hvað um bjöllurnar í kirkjuturnunum? Eru þær hinar einu og sönnu "kirkjuklukkur"? Já...út frá staðsetningu þeirra. En þar með er líka allt upptalið. Þær hringja ekki inn jólin, nema hjá örfáum, auðtrúa sálum sem aldrei hafa reynt að skilja uppruna og tilgang jólanna sem hinir svokölluðu kristnu menn fundu upp. Ég segi fundu upp því að jól "kristinna"manna eru vissulega allt annað fyrirbæri en sú hátíð sem haldin var til forna til að fagna hækkandi sól og var kölluð jól. Nafnið er þannig eldra en hin kristnu jól og gamli tilgangurinn með jólunum var og er miklu skynsamlegri en tilgangur jólanna hjá kristnum þjóðum í dag, (það er jú fáránlegt að trúa á 2000 ára gamlar gyðingaþjóðsögur og væri jafnvel skynsamlegra að trúa á þjóðsögur Jóns Árnasonar því að þær eru þó alltént íslenskar). Auk þessa má bæta því við að það er ekki svo mikið sem stafkrókur í biblíunni fyrir því hvenær "ljós heimsins" fæddist, heldur var ákveðið á einu kirkjuþingi kaþólsku kirkjunnar í gamla daga að stórsniðugt væri að heimfæra meyfæðinguna upp á hina gömlu sólarhátíð og var það gert með ýmsum skrautlegum biblíutilvitnunum sem stóðust engan veginn.

Það er þó ekki ætlunin að tíunda jólin sem slík í þessum greinarhluta, heldur er honum ætlað að fjalla um jólin. sem hátíð hinna "kristnu" kaupmanna.

Mig langar til að byrja á að nefna að sá fyrsti sem gerði mér viðvart um að þessi jól væru í nánd var eigandi "Hag"-kaups en hann var búinn að láta starfsfólk sitt setja upp litaperaröð í kringum höllina sína fyrir miðjan nóvember.

Næst langar mig til að segja ykkur stutta sögu sem kunningi minn sagði mér um daginn (og er hún sísona eftir því sem ég man nokkurn veginn orðrétt):

"Ég var fyrir skemmstu að heyra þá bestu ræðu sem ég hef nokkurn tíma heyrt um dagana. Og þessi ræða var aðeins eitt orð: "Jólaskraut." Og ræðan var endurtekin frá Hlemmi niður allan Laugaveginn og Bankastrætið að Lækjartorgi - með 2 hléum og samsvaraði hvort hlé einni verslun. Ég var sem sé staddur í strætisvagni og fyrir framan mig sat kona með u.þ.b. 3ja ára dreng sem, eins og barna er siður, var með nefið flatt á rúðunni þessa vegalengd sem ég lýsti áðan - og hann var ræðuskörungurinn, sennilega sá mesti sem uppi hefur verið a.m.k. síðan Cato hinn gamli leið. Í fyrstu leiddist mér þessi síbylja í barninu en ekki leið á löngu þar til ég fór að gefa gaum að mótífi ræðunnar. Og það stóð heima: Það sem fullorðið fólk tekur ekki eftir sjá börnin...svo til hver einasti búðargluggi (með 2 undantekningum sem ég talaði um áðan) var hlaðinn jólaskrauti að vísu mismiklu en ræðumaðurinn gaf hverjum glugga (og þar með hverjum verzlunar eiganda) einkunn með því að skipta um tóntegund eftir því hve mikið jólaskraut var í glugganum.

Þessar 2 sögur ("Hag"kaups eigandinn og ræðumaður allra tíma) hljóta að vekja upp spurninguna:"Eru jólin jólaskraut?" og ef svo er þá í hverra hag?

framhald á bls. 2






Stúdentar í Höfðaborg 13. ágúst krefjast réttinda fyrir blökkufólk.

# Sameiginleg barátta araba- og afríkuríkja

Sameiginleg barátta araba- og afríkuríkja gegn heimsvaldastefnu og afsprengi hennar, síonisma og kynþáttakúgun, er ekki nýtilkomin. Hún á rætur að rekja til þess tíma er evrópskt auðvald þandi sig yfir Afríku og Asíu og réttlætti nýlendustefnu sína og þrældóm svertingja með því að verið væri að"siðmennta íbúana".

Athyglisverð staðreynd er að Cecil Rhodes stofnandi Rhodesíu og annarra nýlendna í suður hluta Afríku, var einn af aðalhönnuðum áætlunar um hernám síonista á Palestínu. Bresku heimsvaldasinnana dreymdi um að færa Afríku og Asíu undir krúnuna og höfðu áætlað stofnun síonistaríkis í Austur-Afríku. Árið 1903 buðu bretar part af Austur-Afríku, Kenýa, sem heimkynni gyðinga, Theodor Herzl, upphafsmaður nútímasíonisma, hafði samþykkt það en á þingi síonista í Basel í Sviss 1905 var því hafnað.

Það var aðeins þróun heimsvaldahagsmuna breta í Miðausturlöndum sem auðveldaði gyðingum að fá hið goðsagnageymda föðurland í Palestínu.

Frelsisbarátta araba- og afríkuþjóða hefur þróast á undarlega svipaðan hátt. Báðar hafa vegna ástands heimsins gripið til þeirrar einu leiðar sem er fær. Þjóðirnar hafa með vopnaðri baráttu afhjúpað lygina um ósigranleik heimsvaldaríkjanna.

Barátta ríkjanna er ekki aðeins lík að uppruna, markmiði og aðferðum heldur hafa þau einnig mætt svipuðum hindrunum og samsærum gegn sér. Leppstjórnir í þjónustu heimsvaldaríkjanna hafa rekið rýting í bak beggja þjóðfrelsishreyfinganna.

Til að sýna fram á þetta má nefna glæpaverk Hashemite jórdaníukeisara árið 1970 gegn palestínumönnum sem hann framdi í þjónustu við heimsvaldastefnu og síonisma.

Í Afríku er ríkisstjórn Bandas forseta Malawi eitthvert glæsilegasta dæmið um leppstjórn. Banda ávarpaði fyrstur erlendra þjóðhöfðinga ísraelska þingið í maí 1968. Þá lofaði hann að halda á lofti "málstað Ísraels" og brjóta sannleikanum braut til OAU, Samveldisins og SÞ. Eftir að heim kom lék hann strengjabrúðuhlutverk sitt áfram. Hann tilkynnti í útvarpsræðu að sá sem "héldi því fram að ísraelar væru árásaraðilinn rangtúlkaði ekki aðeins heldur hefði beir línis endaskipti á sannleikanum!

Þess ber að minnast að þessi einstaki talsmaður heimsvaldastefnunnar lýsti yfir í Jóhannesarborg "að Suður-Afríku - og Rhodesíumenn gætu sigrað og ráðið yfir allri Afríku allt til Kaíró. En sem betur fer væru Vorster og Ian Smith siðmenntaðir menn." Afstöðu sína til þjóðfrelsisbaráttu Afríku orðaði hann svona: "stefna kynþáttaaðskilnaðar er aðeins ein hliðin. Skilningur milli afrískra leiðtoga og þeirra sem eru við völd í Suður-Afríku, sem vilja vissulega hlusta, er lausnin." (Africa research bulletin, 1968, bls. 1143).

Houphouet Boigny forseti Fílabeinsstrandarinnar, sem nýlega hitti að máli Dayan og Ian Smith, er þekktur fyrir andstöðu sína við frelsisbaráttu afríkuþjóða. Haft var eftir honum í tansanísku blaði árið 1971 "að Suður-Afríka ætti kröfu á að teljast afrískt ríki og hefði mikilvægu hlutverki að gegna í þróun mála í álfunni." Foringi kynþáttastefnunnar í S-Afríku Vorster, sæmdi hann eftir farandi titli í þakkarskyni: "leiðtogi Vestur Afríku og mjög siðmenntaður maður".

Sierra leone sómir sér einnig vel meðal strengjabrúða heimsvaldastefnunnar í Afríku fyrir að berjast gegn stuðningi OAU við baráttu Palestinuaraba. Dagblað eitt þar í landi kallaði stuðninginn "að vera með nefið ofan í annarra málefnum" og að"kynþáttamisréttinu í S-Afríku væri beint gegn svertingjum en ekki aröbum."

Þetta er aðeins hluti óvinamálstaðar afríku- og arabaríkja Þessi ríki reyna stöðugt að brjóta á bak aftur vaxandi samstöðu ríkjanna. Sem von er hafa þessi ríki að baki glæsilegann feril samstarfs við minnihlutastjórnir kynþáttahataranna. Engu að síður treystir þessi sameiginlega hætta vináttuna milli afrískra og arabískra byltingarmanna.

Afrísk og arabísk þjóðfrelsis hreyfing hefur einnig sem hluti alþjóðlegrar frelsishreyfingar fengið dýrmæta reynslu frá víetnömskum, kínverskum og annara þjóða sigrum á heimsvaldastefnunni.

Afhroð amerísku heimsvaldasinnanna í Angóla, Mósambik og Víetnam hefur orðið þeim verðug hirting. Þetta hefur orðið til þess að amerískir heimsvaldasinnar hafa breytt um baráttuaðferð gegn þjóðfrelsishreyfingum afríku- og arabaríkja, Það er engin tilviljun að hinn svokallaði "ameríski friðarvilji" skýtur upp kollinum á sama tíma í Afríku og Miðausturlöndum. Samsæri heimsvaldasinnanna miðast að því að eyðileggja frelsis- og byltingarhreyfingar þjóðanna og halda uppi leppstjórnum. Jafnvel talið um hið svokallaða "palestínska heimaríki" er af sama toga spunnið og samsærið í Afríku.

Þjóðir Afríku og Asíu eru sér meðvitandi um þetta samsæri sem á að framkvæma í samvinnu við leppstjórnir. Þær hafa látið það koma skýrt fram að þær sætta sig við ekkert minna en fullt frelsi og að leið vopnaðrar baráttu sé sú eina færa.



Ísraelskur hermaður merkir bústað Palestínumanns. Þessa sömu aðferð notuðu þýsku nasistarnir í ofsóknum sínum gegn gyðingum (hina frægu gyðingastjörnu) og nú beita síonistar henni gegn palestínsku þjóðinni.

"Sjálfstæðu afrísku heimaríkin" eru samkvæmt áliti fyrrverandi ráðherra í Suður-Afríku "framhald af og í samræmi við aðskilnaðarstefnuna. Því ef þau þiggja vernd og aðstoð Suður-Afríku verður þeim auðveldara efnahagslega og af öðrum ástæðum að öðlast hagsmuni hins frjálsa heims." (AR. Bulletin, 1970).

Tillaga heimsvaldasinnanna um ríki palestínuaraba er í engu frábrugðin stefnu kynþátta aðskilnaðarins, sem hefur leitt af sér fátækrahverfi í Basuotlandi, Bechoanalandi og Zwasilandi. Hún er ekkert frábrugðin stefnu þar sem aðskilnaður kynþátta innan nýlendu er eina markmiðið.

Byltingarhermenn í Soweto og á Vesturbakkanum minna nýlenduherrana stöðugt á þá staðreynd að "sjálfstætt heimaríki" er ekki heila málið heldur algert frelsi innan þjóðríkis.

framhald á bls. 7